# Dagsbrún.

Mánaðarrit

til stuðnings frjálsri trúarskoðun.

II. | GIMLI, MAN., FEBRÚAR 1894. | 2.

## Sýnishorn af sunnudagaskólakenslu.



„Lexian 1. Mós. 18, 22. 23. Gyllinitexti 25. Lærist utan að 23.—26.“

Af þessu litla sýnishorni, sem þýtt er úr blaðinu Free Press 15. febr. þ. á., geta menn séð hvað hinar rétttrúuðu kirkjur kenna á hinum háloflegu sunnudagaskólum, menn sjá þá, hvort það er um skör fram er sumir segja, að börn læri þar mest megnis bull og endileysu, að vér ekki við höfum sterkari orðatiltæki; menn geta séð, hvað satt er í því: að þeim sé nauðgað til að trúa einu eðr öðru, sem stríðir á móti öllu viti þeirra, skynsemi og bestu tilfinningum; menn geta þá séð það, hvort það sé tilhæfulaust sem menn segja margir hverjir, að kirkjan reyni að berja því inn í börnin, að trúa mörgu því sem foreldrar þeirra myndu álita ósannindi og alls ekki vildu að börnum sínum væri kent; menn geta enn fremr af þessu litla sýnishorni séð, hve upplyftandi kennsla þessi er fyrir blessuð börnin, og ef menn hugsa lengra út í það ættu menn einnig að sjá hvaða afleiðingar þessi lærdómr hlýtr að hafa á börnin, þegar þau koma til vits og ára og fara að bera þennan lærdóm sinn saman við sannleikann og verulegleikann.

Lexian er tekin af eyðileggingu Sódóma, og er skýring klerksins á þessa leið:

**Kap. 18, 1.—21. Þetta er sagan um heimsókn guðs til Abrahams og borðhald hans með honum. Atburðr þessi, heimsókn hinna þriggja**

himinbúa, Jehóva og hinna tveggja engla, til Abrahams, *steikingin á kálfinum og borðhaldið* þeirra allra undir trénu, er að mörgu leyti einstakt í ritningunni. Það er *sannleikanum samkvæmt*, að á niðrlægingardögum sínum tók hann (guð) máltíð á mörgum heimilum, og eftir upprisuna át hann með lærisveinum sínum (Lúk. 24, 42., 43.); en áðr en hann varð maðr er þetta hið eina dæmi þess, að hann hafi verið í þvílíku löguðu samsæti sem maðr með mönnum. Þetta minnir oss á *hvernig samfélagið hafi verið í aldingarðinum Eden*, og bendir oss á hina komandi daga, þegar tjaldbúð Guðs skal vera meðal manna og hann mun búa meðal þeirra (sjá Opinb. 21, 3). En nú höfum vér forréttindin, sem þó fáir virðast nota, að vera stöðugt í návist og samfélagi Jesú Krists (Opinb. 3, 20.; Jóh. 14, 23.; 2. Kor. 6, 16.). Ef vér að eins vildum einsetja oss að verða algjörlega hans, einungis og algjörlega hans, að frambera hiklaust líkami vora sem lifandi fórn, þá mundi hann vissulega taka á móti þeim (líkömunum) og fylla þessi musteri hans dýrðar (Rómv. 12, 1., 2.). Spurning drottins: „*Á ég að dylja* Abraham þess, er ég ætla að gjöra," minnir oss á hvað skrifað stendr: „*En drottinn alvaldr gjörir ekkert, nema hann kunngjöri sinn leyndardóm fyrir sínum þjónum, spámönnunum* (Amos. 3, 7.). Og hans eigin orð (hjá Jóh. 15, 15.): „Ég hefi kallað yðr vini, því *alt það, sem ég hefi heyrt af mínum föðr, það hefi ég kunngjört yðr*," sýna oss í hve nánu sambandi hann vill standa við oss.

18, 22.—33. Milliganga Abrahams fyrir Sódóma. Englarnir höfðu haldið áfram til Sódóma og þar munum vér hitta þá næst, en Abraham er einn eftir hjá drottni; hann finnr glögt til síns eigin óverðugleika, en alt fyrir það, þótt hann sé duft og aska, áræðir hann þó að biðja drottinn að hlífa Sódóma. Meðan vér bíðum eftir komu drottins deyja bæði réttlátir og ranglátir, og er oft kipt úr heimi þessum fyrir áfelli einhver, svo sem fellibilji, jarðskjálfta, skipbrot eða önnur slys, en hinir réttlátu skulu ríkja yfir himnum, þegar morgun kemr (Jóh. 3, 16.). „Að afmá" í 23. versinu hlýtr að eiga við það, að tortýna þeim (deyða þá), þegar borgin var eyðilögð. Abraham biðr því fyrir hinum réttlátu, sem hann vonar að finnist þar, þegar borgin verðr eyðilögð. Hann hyggr að þar séu 50 og biðr fyrir þeim og fær bón sína veitta. Nú fer hann að hugsa um að ekki sé víst að þeir séu svo margir, hann biðr aftr og fær bón sína veitta. Enn er hann hræddr að ekki muni þeir verða svo margir, hann fer niðr í 45, svo í 40, svo í 30, svo í 20 og

loks í 10, og fær loforð um það, að svo framarlega sem í Sódóma finnist 10 menn réttlátir, þá skuli borginni verða vægt. En þegar til kom, var þar að eins einn maðr réttlátr (2. Pét. 2, 7. og 8.), *og þótt hann myndi vera talinn góðr safnaðarlimr í flestum ef ekki öllum kirkjum vorum nú á dögum*, þá höfðu þó börn hans harla lítið traust á honum. En áhrif meðalgöngunnar geta menn séð á 4. Mós. 14, 20. Munið það og, er bænum Zóar var hlíft fyrir meðalgöngu annars eins manns og Lots (1. Mós. 19, 21.). Hins vegar er það athugavert, að vonskan getr orðið svo mikil, að jafnvel meðalganga manna eins og Mósesar og Samúels myndi ekki duga, meira að segja fyrirbón annara eins manna og Nóa, Daníels eða Jobs myndi ekki geta frelsað (Jer. 18, 1.; Esek. 14, 14.—20.). *Drottinn vor Kristr er ekki látinn vera meðalgöngumaðr fyrir syndarana* (Jóh. 17, 8.), þótt hann bæði fyrir þeim á krossinum, en hann lifir til að vera meðalgöngumaðr sinna eigin (Hebr. 7, 25.). 33. versið segir, að drottinn hafi farið burtu og Abraham snúið heim aftr. Þeir urðu aðskildir um stund hið ytra, en ekki í hjartanu. Hvílíkt er ekki orðið í 1. Thess. 4, 17., sem fyllilega mun sannast skjótt um alla trúaða „að eilífu hjá drottni.“

19. kap. 12.—23. v. Frelsun Lots. Hvílíkr munr er eigi á því, hversu englarnir tóku gjarnsamlega á móti heimboði Abrahams og því, *er þeir kusu heldr strætið en hús Lots* [19, 1.—3.]. Er nokkuð það í hjörtum vorum, eðr lífi, eðr heimili, eðr starfi, er myndi hrekja englana burtu, svo þeir vildu heldr hafast við á strætum úti? Í versunum 12.—14. er það athugavert, hversu mikil ósamkvæmni hefir verið í lífi Lots, að vitnisburðr hans skyldi koma börnum hans til þess að gjöra gis að honum. Í versinu 15. og 16. sést alvara og áhugi englanna, að taka konu Lots og dætr hans og leiða þær svo þær sleppi. Í versinu 17. og 20. sést þvergirðingsskaprinn og slæpingrinn í Lot og hversu hann hékk fast við Sódóma, en sökum Abrahams frelsaðist hann, v. 29. Englarnir fóru inn í Sódóma, svo hljótum vér og að gjöra ef vér viljum ná þeim. Þeir höfðu engar vífilengjur, en töluðu blátt áfram um eyðilegginguna. Svo ættum vér og að tala sem ritningin, *um helvíti og endalausar kvalir, um díkið af eldi og brennisteini og orminn, sem aldrei deyr.* Englarnir unnu hart til að frelsa fáeinar sálir og þær þá ekki nein sérleg guðsbörn. Vér getum ekki metið gildi einnar sálar. Ef vér hefðum að eins frásögn gamla Testam., þá mundum vér ekki

álíta Lot réttlátan mann. Dæmum því eigi fyrir tímann, fyr en drottinn kemr [1. Kor. 4, 5.]

19. kap. 24.—29. v. Dómr yfir Sódóma. *Drottinn Jesús trúði því, að eldr og brennisteinn hefði komið af himni ofan og eyðilagt Sódóme og alla hennar íbúa. og að kona Lots hefði orðið að saltstólpu* [Lúk. 17, 29.—32.]. Hann trúði einnig að á dögum Nóa hefði flóðið komið, og að Jónas hefði verið 3 daga og nætr í kviði fiskjar [Lúk. 17, 27. og Matt. 12, 40.]. Vér ættum ekki að hafa neitt samneyti við þá, sem ætla að þeir séu vitrari en Jesús og kenna að þessir hlutir séu ekki sannir [Gal. 1, 8. og 9.; 2. Jóh. 9, 11.]. Í versunum. sem vísað er til í Lúk. 16, segir drottinn vor það skýlaust, að þegar hann komi aftr í sinni dýrð, þá muni ástandið á jörðunni vera eins og það var á undan flóðinu og í Sódóma. Það er einnig skýlaust kent, að eins og Nói var óhultr í örkinni áðr en flóðið kom, eins og Lot slapp úr Sódóma áðr en eldinum rigndi, eins og Rahab slapp úr Jerichó áðr en hún var eyðilögð, þannig skulu allir rétttrúaðir vera hjá drottni áðr en hann opinberar sig í *hinnm logandi eldi* Esaj. 26, 20. og 21.; Lúk. 21, 36.; Opinb. 3, 10.

Í vers. 27.—29. er það athugavert, að Abraham býr óhultr í friði og sameiningu við Jehóva í Hebron. Lærum nú að búa með guði og í guði og hafa ekkert að gera með Sódóma annað, en frelsa fólk þaðan."

Þetta er nú sunnudagalexian orðrétt útlögð, þetta er hin andlega fæða sem æskulýðnum er boðin. Ég veit varla hvort ég á að fara að benda mönnum á stöku atriði í þessum andans innblæstri, en þó held ég að ég verði að gjöra það.

Það er þá fyrst guðshugmyndin. Rétttrúnaðrinn, eðr klerkrinn í rétttrúnaðarins nafni, tekr hér fram söguna um hinn étandi guð, guð á að éta kökur og kálfsket. Það er ekki farið virðulegar með skapara himins og jarðar en svo, að draga hann af himnum ofan, láta hann gjörast svangan og þyrstan, tileinka honum ófullkomleika þá, sem manninum eru eiginlegir, því auðséð er það, að ef guð þarf að éta sem maðr og drekka sem maðr, þá mætti einnig bæta við ýmsu öðru sem menn gjöra, og guði hlyti að vera eiginlegt líka. En hvaða traust eiga menn nú að hafa á guði þeim sem þannig er varið. Menn hafa alment talið þetta sem skáldsögu, og allr þorri kirkjumanna hefir ekki viljað trúa þessari sögu, en hér geta þeir nú séð hverju hin rétttrúaða kirkja trúir í þessu efni. Svo kemr setningin um samfélagið í aldingarðinum Ed-

en. Eftir prestlegri hugmynd áttu mennirnir að lifa í bróðrlegu samfélagi við guð og englana, við villidýrin og hvalfiskana í aldingarðinum Eden. Dauðinn var ekki til, ekkert dó, enginn fiskr, engin fluga, enginn ormr, ekkert blóm, ekkert grasstrá. Úlfrinn, ljónið, tígrisdýrið lifði ekki á öðrum dýrum; nautið, hestrinn, sauðkindin át ekki gras; hvalrinn ekki smáfiska. Fíllinn, hestrinn, maðrinn tróð aldrei blóm eðr orm undir fótum sínum, maðrinn bragðaði hvorki ket eða fisk, ekki ávexti eða rætr, ekki korn eða nokkuð það sem lifandi var, því dauðinn var ekki til. Hann var ekki til um langa tíma, ekki fyr en maðrinn syndgaði fyrir kerlingarvarginn hana Evu. Hún steypti öllum heiminum úr þessu dýrðlega sæluástandi, þar sem mennirnir voru fullkomlega góðir, þektu ekki synd eða sorg, grétu ekki, átu ekki, en lifðu í eilífum söng innan um apa og hyenur, svín og kálfa, engla og tígrisdýr. Þetta kennir kirkja og klerkar á sunnudagaskólum, en svo ganga börnin á aðra skóla hina 5 eða 6 daga vikunnar, og þar læra þau að þetta sé bull og endileysa. Hver einn einasti mentaðr maðr hlær að þessu, hann getr ekki annað.

Svo kemr önnur hugmynd um guð. Guð er óviss í því hvort hann eigi að dylja Abraham þess sem hann ætlar að gjöra, og svo kemr setningin úr Amos: að „drottinn alvaldr gjöri ekkert, nema hann kunngjöri sinn leyndardóm fyrir sínum þjónum, spámönnunum.“ O, jæja, spámennirnir eru ráðaneytið sem hann þarf að ráðgast um við. Eftir þessu hefir hann þurft að ráðgast við þá um sköpunina, um sköpun sólar og tungls, stjarna og planta, dýra og manna. Hann hefir þurft að ráðgast við þá um sköpun sjálfra þeirra!!! — en — þá voru þeir ekki til, og því rekr þetta sig á og verðr botnlaus vitleysa.

Svo lætr klerkr guðinn Krist segja, að hann hafi kunngjört lærisveinum sínum alt, sem hann hafði heyrt af sínum föðr. Hafi nú Kristr verið alvitr, sem guð, þá hefir hann orðið að segja lærisveinum sínum æðimargt, þeir hefðu þá átt að þekkja öll vísindi mannkynsins, öll vísindi alheimsins, alla leyndardóma náttúrunnar; þeir hefðu sjálfsagt átt að vita um Ameríku, að hún var til, en þeir hafa verið svo þagmælskir, að segja ekki frá því.

Svo kemr sagan um það, er Abraham er að semja við guð um Sódóma, hann ragar hann niðr eins og væri hann einhver Gyðingaprangari; ég hefi getið þessa áðr, og get því ekki verið að fara um það fleiri orðum.

Svo kemr hinn réttláti[!!] Lot. Öll sagan um hann er svo svívirðileg, að ekki er hafandi eftir. Þar sjáum vér ímynd réttlætisins. Er það nú meining foreldranna að láta börn sín læra réttlæti af Lot, þegar hann ætlaði að fá skrílnum dætur sínar til að frelsa þessa blessaða engla, eða af samveru hans við dætur hans í hellinum? En safnaðarlimr hefði hann verið góðr, vér getum huggað oss við það. Hinir rétttrúuðu bræðr vorir hafa þarna fyrirmyndina, hvernig þeir eigi að lifa saman við dætur sínar eða hvað? Gott fyrir börn að læra þetta á sunnudagaskólum!! Er ekki svo!

Svo er farið að skýra það, „að drottinn vor Kristr sé ekki meðalgöngumaðr fyrir syndarana. Þarna hafið þér það, rétttrúaðir bræðr, svart á hvítu, en stundum hefir þó hin rétttrúaða kirkja kent, að Kristr væri einmitt kominn til að frelsa syndarana, og víða í nýja Testamentinu er Kristr látinn segja það sjálfr. Hér er því hátíðlega neitað. Hugsunin, sem liggr til grundvallar fyrir þessu er án efa sú, að fáeinir „útvaldir" ætla sér að frelsast, en láta allan þorrann sigla norðr og niðr. Það kemr og heim við það sem seinna er sagt, að þeir skuli skýrt og ljóst tala sem ritningin, um endalausar kvalir, um dýkið af eldi og brennisteini og orminum, sem aldrei deyji. Klerkar ginna oft alþýðu og segja henni, að þeir séu alveg hættir að kenna eilíft víti, en hér á sunnudagaskólunum eru þeir að lauma því inn hjá börnunum. Foreldrarnir neita víst flestir hátíðlega þessu víti, en alt fyrir það standa þeir með húfuna í annari hendinni og dollarinn í hinni, þakkandi klerki fyrir uppfræðslu barna sinna, fyrir það, að hann kennir þeim að trúa öðrum eins ósóma um skaparann.

En nú kemr rúsínan í því öllu. Ég hefði ekki trúað því fyr en ég sá það svart á hvítu, að klerkar myndu draga fram aðra eins staði og þessa. Þeir halda því fram að Kristr sé Guð, alvitr og alfullkominn, en segja þó, eins og að framan er getið, að Guð hafi verið svangr og þurft að eta, og svo hér, að hann hafi trúað því að eldi og brennisteini hafi rignt yfir Sódóma, og að kona Lots hafi orðið að saltstólpa, eða að syndaflóðið hafi komið og að Jónas gamli hafi verið 3 daga og 3 nætr niðri í hvalsmaga. Þetta á að vera sláandi sönnun fyrir guðdómi Krists, sláandi sönnun fyrir guðdómlegum innblæstri ritningarinnar, því hér er það sýnt að ritningin, nýja Testam., segi að Kristr hafi trúað þessu. Enda er það satt,

að nýja Testam. segir það, það getr hver sem vill flett upp staðnum og séð það sjálfr. En—hver trúir þessu? Vér trúum því allir að ritningin segi að Kristr trúi því, en ég held að sá rétttrúaðr maðr sé ekki til meðal Íslendinga (hér vestra að minsta kosti), sem trúi því að þetta sé satt, trúi því, að eldi og brennisteini rigni úr lofti ofan, eða að kona geti orðið að salti, eða að syndaflóð hafi komið og eyðilagt menn og dýr öll á jörðu, eða að maðr, þótt spámaðr væri, hafi lifað 3 sólarhringa í hvalsmaga. Það má sanna það fyrir hverjum manni, sem ekki er skertr á viti sínu, að þetta er ómögulegt. Þetta hlýtr og að sanna mönnum það, að Kristr hafi verið maðr. Ég fyrir mitt leyti trúi því, að Kristr hafi trúað þessu, því hann var Gyðingr og hefir því verið uppfræddr í hugmyndum og trú Gyðinga. Hann er látinn segja, að hann sé kominn til að fullkomna lögmálið, en ekki afnema það.

Er það nú virkilega meining manna, að senda börn sín á sunnudagaskóla til þess að læra annað eins bull og þetta. Hér er öllu hrært saman, guðrækni, saurugum frásögum og botnlausri vitleysu. Ég get ekki látið vera, að vera berorðr um þetta. Það hefir réttilega verið glæpr talinn og margr maðrinn hefir verið hengdr fyrir það hér í Ameríku, að nauðga stúlkubörnum; en þetta er líka að nauðga börnum og engu betra, að neyða þau til að taka annað eins og þetta fyrir guðdómlegan sannleika. Foreldrarnir elska börn sín, ég efast ekki um það—en margr maðrinn er sú blessuð aumingja rola, að vilja nauðga barni sínu til þess að þeir þóknist guðmanninum. En nauðgun þessi á börnunum er svívirðileg, niðrdrepandi fyrir sannleika, hreinskilni og dygð, svívirða við guð og svívirða á manninum. Hér er sáð fræinu að óhreinskilni, hræsni og tvöfeldni, sem vér svo oft rekum oss á. Ég veit ekki hvað verðr heilagt fyrir þeim mönnum, sem þannig vaxa upp. Heldr vildi ég vita börn mín í gröf sinni, en á öðrum eins skólum.

Menn þeir, sem fyrirverða sig fyrir þetta, kunna nú að segja, ef þeir vilja leggja út í að reyna að andæfa þessu, að ég taki hér dæmi úr annari kirkju, hinni presbyteriönsku, en sú mótbára er einskis virði, því aðalatriðið, sem hinni presbyteriönsku og lúþersku kirkju ber á milli, er það, að hin presbyterianska kirkja kennir: „að Guð hafi frá eilífð fyrirhugað suma menn til vantrúar og fyrirdæmingar, en suma til eilífrar sælu,“ og „að vér étum e k k i sjálfan líkama Krists og blóð í kvöldmáltíðinni,“ heldr „höldum hana í minningu Krssts,“ en hin

lúþerska kennir: „að líkami Krists og blóð sé sannarlega nálægt í sakramentunum," og svo hitt, „að mennirnir ákvarði sig sjálfir til himnaríkis eðr helvítis." Aðrar kenningar þeirra eru hinar sömu, og sunnudagaskólar Íslendinga eru að meira eða minna leiti sniðnir eftir enskum eða ameríkönskum skólum.

Það hefði mátt benda á fleiri atriði en þetta í þessari einu sunnudagaskólalexíu, en ég læt hér við sitja í bráð.

RITSTJÓRINN.

---

# Er syndaflóðið sögulegr og sannr viðburðr eða ekki?

Fyrirlestr eftir M. J. SK., fluttr að Gimli og í Dakota 1892.*

—:o:—

(Framh.). Ég ætla ekki að fara út í goðafræði þeirra, en ef nokkr hefði skemtun af því að heyra, hvernig menn báðu til guðs í þessari kolsvörtu heiðni fyrir einum 5000 árum, þá set ég hér eina bæn til guðsins Amun Ra (hins hulda guðs): „Heill þér Amun Ra! Þú drottinn hásæta jarðar, þú hin elzta tilvera, þú hinn aldni meðal himnanna, viðhald allra hluta, þú hinn æðsti guðanna, drottinn sannleikans, faðir guðanna, skapari manna, dýra og grasa, þú, sem myndað hefir alt uppi, sem niðri, þú lausnari hins þjáða og kúgaða, þú sem dæmir hinn fátæka, þú drottinn spekinnar, drottinn miskunnsemdanna, þú hinn kærleiksfyllsti, sem opnar auga hvert, þú uppspretta gleðinnar, í hvers kærleika guðirnir gleðjast, þú með hið hulda nafn. Þú ert hinn eini skapari alls hins veranda, hinn eini og einasti skapari guða og manna, er gefr öllu næring. Heill þér! þú með hinum mörgu höfðum, þú sem ert svefnlaus er aðrir sofa, vér tilbiðjum þig. Dýrki þig og tilbiðji allar skepnur, frá öllum löndum, alt frá himnanna hæð niðr í sjáfarins dýpi. Andarnir sem þú

---

* Nafn höfundar fyrirlestrs þessa féll úr fyrirsögninni við byrjun hans af vangá. PRENTARINN.

hefir skapað, upplyfti þér hátt og segi: Blessaðr sért þú faðir feðra guðanna, vér tilbiðjum þinn anda, *sem í oss býr.*"

Ég verð að segja það, hvað mig snertir, að ég hefi bæði heyrt flutta og flutt sjálfr lakari bæn af stólnum, en þessa.

Hvort ætlið þér nú kæru vinir! að þessir menn, sem voru jafn mentaðir, hafi allir verið frá Nóa komnir. Þessar miljónir allar, sem breiddust út um og bygðu hinn frjóvsama Nílárdal, þar sem vér sjáum hvert mannvirkið taka við af öðru, eina konungaættina taka við af annari, en aldrei er um flóðið getið; aldrei kemr þessi skelfing yfir land og lýð sem fornsögur Hebrea tala um. Vissulega er hvergi hægt að koma flóðinu inn í sögu Egyfta; vér hljótum allir að sætta oss við það, því það er *alveg óhugsandi*, en nú skulum vér bregða oss annað, til héraða þeirra er sögufróðir menn ætla að hinir fyrstu forfeðr Gyðinga hafi komið frá.

Í suðvestrhorninu á Persalandi er hinn yndislegi Schirasdalr í héraðinu Farsistan. Hin löngu vor og sumur eru slétturnar alþaktar blómskrúði, loftið er fult af ilm og angan blómanna. Hinn unaðslegi hljómr söngfuglanna, vindþytrinn og vatnaniðrinn ómar sætt í eyrum vorum. Kornið er fullþroskað í maímánuði, vínþrúgurnar og perurnar eru ljúffengari en nokkurs staðar í norðrálfunni. Nætrgalinn syngr þar sætar, en annars staðar. Fegurð náttúrunnar, fegurð kvennfólksins, hefir hrifið margt skáldið til að syngja hvorutveggja dýrðlega lofsöngva. 30 mílur norðvestr af Schiras stendr ákaflega mikill hjalli eða hæð, 50 fetum hærri en sléttan umhverfis, sumpart höggvin út úr fjallinu, en sumpart hlaðinn upp úr gráum marmarasteinum 20—60 feta löngum og svo laglega tengdum saman, að erfitt er að sjá nokkur samskeyti. Hjalli þessi er eitthvað 1400 feta langr og 900 feta breiðr. Upp á hann liggja marmaratröppur svo breiðar, að heilir herflokkar geta riðið þar upp. Þegar upp kemr, standa sín hvoru megin tvær útskornar risavaxnar myndir, höggnar úr marmara. Ætla sumir þær eigi að tákna einhyrninga, en aðrir, að þær eigi að tákna hin helgu naut „maganna". Á myndum þessum er engu minna listaverk, en á hinum fegrstu grísku myndastyttum. Þarna hafa þær staðið í hundruð, má ske þúsund ár. Það eru nokkurs konar varðenglar hinnar konunglegu hallar. Vér höldum áfram og sjáum þá ákaflega miklar útskornar steinsúlur, og sýnir skurðrinn að þessi bygg-ingarlist er nú útdauð með öllu. Súlurnar eru 50—60 fet á hæð og

12—15 feta ummáls. Einu sinni áðr fyrri stóðu þær undir sedrusviðarþakinu, sem hvolfdist yfir höfðum hinna austrænu konunga og skýldi þeim fyrir hinni heitu Asíusól. Með fram tröppunum eru útskornar myndir, sem eins og sýnast ganga upp riðið með manni. Það eru hermenn, hirðmenn, herteknir fangar, menn af öllum þjóðum. Má þar þekkja hina ýmsu þjóðflokka, þar á meðal blámenn úr Afríku. Nóg er þar af rúnaletri fleigmynduðu, eins og alt Assýra letr er. Letr það hefir lengi staðið fyrir vísindamönnum, en þó eru menn nú farnir að lesa það. Sem sýnishorn af rithætti og hugmyndum þeirra vil ég koma með eina „innskrift."

„Ahura-Mazda (Ormazd) er máttugr guð, sem hefir skapað jörðina, heiminn, mennina; hann upphefr mennina; hann gjörði Xerxes að konungi og lét hann drottna yfir mörgum. Ég, Xerxes, konungr konunganna, konungr jarðarinnar nær og fjær, sonr Dariusar, Achemenidi. Það sem ég hefi gjört annars staðar, það hefi ég gjört fyrir náð Ahura-Mazda." Og annars staðar stendr: „Ahura-Mazda og Mithra varðveiti mig og þjóð mína."

Þetta er hin nafnfræga Persepolis. Hér voru þeir Xerxes og Artaxerxes, Cyrus og Darius. Þetta alt saman, þessir stólpar úr útdauðri byggingalist, letrið undarlega, sem svo örðugt hefir gengið að leysa úr. Hinar tröllslegu myndir við innganginn, alt málverkið á veggjunum; alt saman bendir þetta á forna frægð, á stóra og mikla þjóð, sem lifað hafi löngu fyrir og löngu eftir daga Nóa gamla. Þarna eiga að vera grafir hinna fornu konunga. Myndir konunganna eru höggnar yfir gröfunum. Ein stendr fyrir altari og logar eldr á altarinu, en yfir altarinu er hnöttr, sem á að tákna sólina. Uppi yfir konunginum sýnist hanga í loftinu vængjuð mynd í líkingu hans, á það að vera „fravashi" konungsins eðr andi hans, eftir Persatrú hinni fornu. Alt þetta bendir á hina miklu fornu Persatrú, Zóróasterstrú, sem nú er að miklu undir lok liðin. Biflía þeirra er kölluð Zend-Avesta. Hve nær Zóróaster hafi lifað vita menn ógjörla, en fornir grískir og latneskir sagnfræðingar, Aristoteles og Plinius, láta hann vera uppi 6000 árum fyrir dauða Platós, og Hermippos lætr hann vera uppi 5000 árum fyrir Trójubardaga, en það yrði einum 6300 árum fyrir Krist eða nær 2000 árum fyrir sköpun veraldar eftir biflíutali. En hvað sem því líðr, þá sér maðr fljótt að þjóðin, þessi hin persneska, hlýtr að hafa verið til löngu fyrir daga Nóa og aldrei liðið undir lok. Hjá Persum vitum vér að Gyðing-

ar hafa í herleiðingunni kynnst tvígyðistrúbrögðunum, sem aftr voru miklu eldri en gamli Nói. Þar var það að Gyðingar fengu hugmyndina um djöfulinn, þenna myrkranna fursta, Ahriman, sem einlægt lá í ófriði við guð, og var því sem næst jafn voldugr og guð sjálfr. Ég ætla nú að koma með dálítið sýnishorn af Zend-Avesta:

„Góðar eru hugsanir, gott er tal og góð eru verk hins hreina Zarathustra. Með upplyftum höndum bið ég og þrái þann fögnuð: hin hreinu verk hins hreina anda Mazda — tilhneigingu til að fremja góðverk. Ég hefi falið guði sálu mína, og ég ætla að kenna það sem hreint er, svo lengi sem ég get. Kenn þú mér Ahura-Mazda af sjálfum þér. Þig hefi ég hugsað að vegsama, ó, Mazda! sem hinn fyrsta, skaparann, drottinn heimanna, drottinn hins góða, hinn fyrsta myndasmið! Vér heiðrum hinn góða anda, hið góða ríki, hið góða lögmál og alt sem er gott.“ Þannig talar Zóróaster gamli fyrir fleiri þúsundum ára, og sést hér, að hann hefir trúað á góðan guð skapara himins og jarðar.

En nú fer að opnast stærra sjónarsvið. Zend-Avesta, biflía þeirra Parsanna, minnir oss á hina voldugu Aryana þjóð. Í fyrsta kapítulanum á Vendidad, einni af Zend-Avesta bókunum, er talað um ljómandi land, „Aryana-Vaejo,“ sem Ahura-Mazda átti að hafa skapað til ununar börnum sínum. Menn vita ekki vel hvar það hafi verið fremr en Eden Hebrea, en ætla að það hafi verið norðr eða norðaustr af Persalandi. Þaðan rann þjóðastraumrinn lengst uppi í fornöld, 3—4000 árum fyrir Krist eða fyrri. Hefir straumr sá runnið bæði suðr á Indland og Persaland og svo um alla norðrálfu, og alls staðar brutu þeir undir sig eða ýttu frá sér hinum fornu íbúum, erum vér Íslendingar óefað komnir af þessum austrænu víkingum, en alls ekki af Nóa gamla, sem heyrir til alt öðru kynferði. Í fyrstu, þegar Aryana þjóðin tók sig upp úr hinum fornu átthögum sínum, stefndi einn straumrinn suðr á Indland, hið sólfagra blómlega land. Þar lögðu þeir undir sig hina fornu íbúa löngu fyrir daga Nóa gamla, mynduðu þar ríki og stofnuðu þar trúbrögð, Brahmatrúna, sem nú telr meðal áhangenda sinna nær 150 miljónum manna, og eru biflíur þeirra, Vedabækurnar, álitnar að minsta kosti einum 1000 árum eldri en biflía vor, líklega þó nær 1900—2000 árum eldri. Annar flokkrinn hefir hlaupið suðr á Persaland, ýtt frá sér hinum fornu þjóðum, tekið lönd þeirra, myndað þar ríki og stofnað trúbrögð. Það er Zóróasters trúin, sem einnig hefir haldist við um

þúsundir ára (Persar). Enn eru fleiri þjóðir sem eru afsprengr þessarar eldgömlu þjóðar Aryananna. Löngu áðr en hin hebreska biflía var rituð, veltust þjóðir af þessu kyni suðr yfir Grikkland og stofnuðu þar ríki og trúbrögð þau; er vér þekkjum af hinni grísku goðafræði. Enn hljóp fjórði hóprinn suðr yfir Ítalíu og myndaði þar ríki, trúbrögð og tungumál. Þá er hinn fimti hóprinn, Celtar, er óðu yfir norðrálfuna á steinaldartímanum, alt vestr á Bretlandseyjar og brutu undir sig hina fornu íbúa og settust að eignum þeirra. Eru leyfar þeirra enn í Skotlandi, Írlandi, á Mön, í Wales og Bretagne. Seinna kom sjötti hóprinn, Teutonar, kvísluðust þeir við Eystrasalt, ýttu frá sér Celtum, eins og þeir höfðu gjört við hina fyrri íbúa, og breiddust út um Norðr-Þýzkaland, Danmörk, Svíþjóð, Noreg og víðar. Þangað en ekki til Nóa gamla eigum vér Íslendingar kyn vort að rekja, þangað getum vér rakið mál vort. Austr í Himalayjafjöllum bjuggu forfeðr vorir. Seinasti hóprinn af þessari miklu þjóð er að austan hefir komið, eru Slavar, er nú byggja Rússland, Polen og nærliggjandi lönd.

Í „History of England,“ útgefinni 1891, sem nú er lesin í barnaskólum Canada, er talað um þá, þessa fornu íbúa álfunnar, er þjóðir þessar biltu frá sér, hina gömlu steinaldarmenn, sem menn nú eru óðum að finna leifar af í fornum haugum. Þeir höfðu langar höfuðkúpur og mjóar, líkt og hinir dökkhærðu, hrokkinhærðu Baskar í Pyreneafjöllum, sem virðast vera hinar einu leyfar af þessum fornu íbúum. Baskar þessir tala tungu ólíka öllum öðrum, nema ef væri Finnum. Vér getum hugsað oss þá, þessa steinaldarmenn, þeir búa í holum og hellrum með konum sínum og börnum, þeir berjast við dýrin með bareflum, með höndum og tönnum, stundum byggja þeir sér bæi út í tjörnum og foræðum, til þess að geta betr varist árásum óvina sinna. Þeir eru viltir, flóttalegir, klæddir dýraskinnum og ákaflega grimmir og heiftugir. En tímarnir líða og annar flokkr, hinn aryanski, sem ég mintist á áðan, kemr og blandast saman við þessa langhöfðuðu menn. Aryanar eru ljóshærðir, hávaxnir, hafa meiri hæfileika og meiri mentun en hinir.

Að þetta séu frændþjóðir: Hindúar, Persar, Grikkir, Latínar, Celtar, Teutonar og Slavar, það sjáum vér af samanburði tungumálanna. Rætr orðanna í tungumálum þessum má rekja upp til einnar móðurtungu. Í trúbókum Hindúa og Persa koma fyrir hin sömu goðanöfn. Hjá Hindúum eru þeir guðir, en hjá Persum eru þeir illir andar. En

það var alsiða hjá hinum fornu þjóðum er þær áttu í ófriði saman, að guðir þeirrar þjóðarinnar er ósigr beið voru gjörðir að undirlægjum hinnar, og þá alloft að djöflum eða illum öndum. Þá eru og enn leifar af hinni fornu frændsemi í mannanöfnum vorum, svo sem Indriði af guðinum Indra, Agnar af guðinum Agni. Enn eru og margar líkingar milli Zoroasters trúarbragða og hinna fornu norrænu trúarbragða, sem hér yrði of langt að tala um.

Af samanburði tungumálanna má gjöra sér nokkuð ljósar hugmyndir um þessa eldgömlu þjóð, sem hefir verið móðir þessara þjóðflokka allra. Menn vita að hún hefir verið hjarðþjóð, en búið þó í húsum, haft uxa, hesta, kindur, geitur, svín og alifugla. Þeir hafa haft plóginn, kornmylnur, hafa talið eftir tugakerfinu, hafa haft dyr, glugga og eldstór í híbýlum sínum, árið hafa þeir talið 365 daga. Vér vitum t. d. að h ú s er á Sanskrít: d a m a, á Zendmáli: d e m a n a, á grísku: d o m o s, á latínu: d o m u s, írsku: d a m, slavónsku: d o m u, og hjá oss ætla menn að orðið heimili sé af sömu rót runnið; þannig er um mesta fjölda orða. Þangað austr í Himalayjafjöll megum vér því leita að forfeðrum vorum, en ekki til Nóa gamla, sem hefir verið af alt öðrum kynflokki. Þessar þjóðir allar, sem ég hefi talið upp, heyra til hinum kákasiska flokkki, sem einnig er kallaðr hinn indo–evropeiski, og þó líklega réttast nefndr hinn aryanski þjóðflokkr. Er það alt annar þjóðflokkr en sá er Nói hefir heyrt til, hinn syro–chaldeiski eða semitiski þjóðflokkr. Undir hann heyra tungumálin: arameiska, chaldeiska, hebreska, arabiska, eþiopiska, púnverska. Ef að þessar tungur, hin aryanska og syro–chaldeiska, væru nú komnar af sömu móðrtungu, þá ættu þær að fá meiri líkingu hver af annari, eftir því sem lengra dragi upp í tímann, en málfræðingarnir segja oss, að það eigi sér ekki stað. Gríska, gotneska og sanskrít, sem allar heyra til hinum aryanska flokki, hafa klofnað frá móðrtungunni fyrir þúsundum ára, en þær sýna þó enn þann dag í dag skyldleika sinn, þár sem engin líking finst milli hinna semitisku og aryönsku mála. Nói hefir, hafi hann nokkurn tíma verið til, verið einn af hinum semitiska flokki, en allr þorri norðrálfubúa af hinum aryanska.

Skyldi nú einhver rétttrúaðr fara að segja, að flóðið hafi ekki átt að ná yfir alla jörðina, það hafi að eins verið í löndunum í nágrenni við Nóa gamla, sem þessi vatnsaustr hafi komið yfir, þá er fyrst það athugandi við það, að þeir menn neita innblæstri ritningarinnar, þeir segja

um leið, að hún fari með ósannindi, þar sem hún svo skýrt sem mögulegt er, tekr fram, að allir menn og allr fénaðr á jörðu hafi farist í flóðinu, nema það sem með Nóa var í örkinni. En svo er og annað. Það hefir ætíð verið álitið að Nói hafi átt að búa einhvers staðar í Euphrat- eða Tigris-dalnum. Fjallið Ararat er ofan við sléttlendi það, og nýrri tíma málfræðingar og fornfræðingar hafa sannað það, að Gyðingar eiga ætt sína að rekja austr um Euphrat. En nú skulum við gæta að þar, þar ættum við að finna spor Nóa gamla.

Skömmu eftir daga Nóa, eða tíma þann, er Nói átti að lifa á, voru þar eystra stór og voldug ríki, landið var ákaflega frjóvsamt eins og Nílárdalrinn, hver borgin var þar annari stærri; stærstar voru þó Babýlon og Ninive, áttu höfðingjar þeirra oft í stríði hvor við annan og veitti ýmsum betr. Tungumál Babylonsmanna var skylt mongólsku, eða eitt af túiönsku málunum, sem er enn einn höfuðflokkr annar en aryanska og semitiska. Elzt af borgunum var Úr, sem þýðir borgin á vestrbakka Euphrats. Hafa menn fundið eldgamlar myndaskriftir sem segja frá konungum í Úr. Þeir dýrkuðu tunglguðinn og reistu mörg og mikil hof honum til dýrðar; aðrar borgir miklar voru þar Erech, Nipur og Larsa, voru þar musteri helguð sólinni, Istar og Bel. Menn þessir skrifuðu með fleigletri á steina og spjöld, og hafa menn fundið allmikið af ritsmíði þeirra, og það svo að menn geta talið konunga þeirra mann fram af manni ofan úr elstu fornöld, alt til þess er hinn verulegi sögutími hófst. Þjóðir þessar voru afar voldugar og mannmargar, og saga þeirra að mun stórkostlegri, en sögur smáhöfðingjanna í norðrálfunni fyr og seinna, er flestir mega teljast kotungar hjá þessum. Snemma deildu höfðingjarnir af Úr og Erech um völdin. Árið 2,280 fyrir Krist var það, að Kudur-nankhundi lagði undir sig Chaldeu. — Ef menn nú athuga það, að árið 2,280, einum 70 árum eftir flóðið góða, voru þarna uppi stór og voldug ríki, fjölmennar borgir, miklir konungar, er réðu yfir miljónum manna, hvernig geta menn þá hugsað sér, að þetta hafi alt æxlast út af Nóa gamla og hyski hans? — Svo ríkti hann þar og afkomendr hans, Cudur-Mabog lagði undir sig Babylon og Palestinu eða Canaan. Seinna kom önnur ætt þar til ríkis og var Kammuragas hinn fyrsti konungr af þeirri ætt, var hann hermaðr mikill sem þeir flestir, og lagði til fulls undir sig Chaldeu, er hann braut undir sig Naram-Sin Babýlónarkon-

ung. Faðir Naram-Sins hét Sargón, mikill höfðingi. Stofnaði hann bókhlöðu mikla í Agana nálægt 2000 árum fyrir Krist. Var þar málfræði, orðabækur, lestrarbækur, stjörnufræði o. fl. á Assýra og Accadamáli. Hafa menn nú fundið nokkuð af bókum þessum og getað lesið þær. (Framh. í næsta nr.)

---

## TRÚARJÁTNING.

Ég trúi á guð, hans gæskan eilíf er
sem getr frelsað mig í lífi og deyð;
hann hefir ávalt hjálpað veikum mér,
um heimsins grýttu og villigjörnu leið.

Ég trúi á Jesúm sannan sannleiks vott,
er sýndi í verki guðdómlega trú;
hann ávalt var að gjöra mönnum gott,
svo gæti lært það bæði ég og þú.

Ég trúi ei á blinda bókstafs trú,
sem betrar ekki neitt minn innra mann,
þó kenning slíka kunni að heyra nú
það kraftlaust orðagjálfr að eins fann.

Ég trúi kærleik, trúi' á elsku og náð,
en tek að forðast alla djöfla trú.
Ég veit almættið einlægt hefir ráð,
að ei til Vítis fari ég og þú.

*S. J.*

---



LEIÐRÉTTING í DBR. II, 1., bls. 9, 10 og 11 línu að n. les: „Bel Merodach" í stað: „Bel,", Merodach".

 G. M. THOMPSON hefir á hendi alla afgreiðslu á DAGSBRÚN og annast fjármál hennar. Kaupendr snúi sér því til hans í þeim efnum. 

Hve nær sem kaupendr að „Dagsbrún" skifta um bústað, eru þeir vinsamlega beðnir að senda skriflegt skeyti um það til G. M. Thompson

„DAGSBRÚN" kemr út einu sinni á mánuði hverjum, verð $1.00 um árið í Vestrheimi; á Íslandi Kr. 2.00, greiðist fyrir fram. Send til Íslands en borguð hér $0.75.——Skrifstofa blaðsins er hjá Magn. J. Skaptason, Gimli, Man. Canada.


Ritstjóri: MAGN. J. SKAPTASON.

Prentsmiðja G. M. THOMPSON.